


IV. Winnipeg, Man. Nr. 5.

# KALDEUMENN HINIR FORNU.

Framhald

## SKÖPUNARSAGAN.

Á æfi al'ra manna kemur sú tíð fyr eða síðar, að barnið fer að hugsa hvernig á því staudi, að heimurinn sé eins og hann er. Spurningin vaknar hjá barninu: hver gjörði jörðina, sólina, tunglið, stjörnurnar, fjöllin og klettana. blómin og grösin og dýrin og manninn. Því er sagt að guð hafi gjört Það, og þegar barnið undrandi fer að hugsa ut í það meira, þá kemur ósjálrrátt fram á varir þess spurningin: hvernig gjörði guð það? Því er svarað með því að vísa því til sköpunarsögu ritningarinnar, þessarar þjóðsögu Gyðinga, sem hinn kristni heimur hefir viðtekið í nokkur hundruð ár. En það voru einnig til aðrar sögur um sköpun heimsins. Eins og hver einasti maður hefir einusinni verið barn, eins hafa allar þjóðir verið á æskuskeiði, og það má ætla, að hvert einasta mannsbarn, sem fæðst hefir í heim þennan og komist til vits og ára, hafi lagt fyrir sig þessa hina sömu spurningu. Menn vita að allar þjóðir, sem nokkrar sögur fara af, hafa búið til sínar sköpunarsögur, eðlilega af því að mennirnir hlutu að gjöra sér hugmynd um uppruna heims ins og hlutanna, en svo breiddust þær hugmyndir út og voru sagðar mann frá manni, sem mönnum féll best í geð og þóttu trúlegastar. Þessar sögur voru jafn margar þjóðunum og mjög barnalegar í fyrstu, en þær geymdust í minnum þjóðanna lið fram af lið um þúsundir ára. Með aldrinum breyttu þær búningi sínum; ein kyn-

slóðin bætti þessu atriði við söguna, önnur hinu, stundum var eitthvað felt úr og annað sett í staðinn. Einkum var það þegar nýr þjóðflokkur tók upp söguna eða þegar tvær sköpunarsögur blönduðust saman. Þá var oft tekið eitt atriði úr þessari sögunni og annað úr hinni. En einlægt var sögunum haldið við, þær voru lærðar mann fram af manni. Þegar menn fóru að læra að rista rúnir, þá voru sögur þessar ritaðar af hinum vitrustu og bestu mönnum, og voru þær ekki einungis álitnar helgar, heldur ofar mannlegum skilningi, nema innblásinn væri; átti guð sjálfur að hafa opinberað eður sagt mönnum sögur þessar. Það var því ekki að furða þó að þær væru álitnar hinn æðsti guðdómlegi sannleikur. Enda gerðu prestar alt sitt til að skoðun sú gæti haldist við, því að á því bygðist staða og virðing sjálfra þeirra.

Af öllum þessum bókum eða ritum heimsins er ekkert jafn merkilegt, er menn nú þekkja, sem hinar helgu bækur eða rúnasafn hinna fornu Kaldeumanna. Fyrst og fremst fyrir það, að þær eru eldri en alt annað ritsafn heimsins; það hefir geymst þarna í bókhlöðum prestanna í Agade, Sippar, Cutha og víðar í margar þúsundir ára, og svo er hitt, að forfeður Gyðinga, eður þeirra Abrahams, Ísaks og Jakobs (sem ritningin kallar forfeður af því að þeir gátu ekki rakið söguna lengra) bjuggu þarna í landinu Shpinar öldum saman, lærðu sögur og siðu og trúnað landsmanna og fluttu síðan með sér vestur á Canaansland, vestur til Egyftalands og svo þaðan aftur til Gyðingalands. Og ekki einungis fluttu með sér heldur skrásettu aftur í sinni heilögu bók, ritningunni, stundum breyttar meira og minna. Og af sögum þessum mynduðu þeir trú sína, en með því að erfa frá þeim trúna og biblíuna, höfum vér erft sögurnar líka. Þess vegna getum vér leitað að upphafi trúarbragða þeirra að upphafi kristninnar, hjá þessum heiðnu þjóðum þar austur í Kaldeu. Geta menn af því séð, hvers virði "innblásturinn" er.

Hér að framan hefir verið getið um guðinn Ea, spekinnar guð, er hinar turönsku þjóðir dýrkuðu. Átti hann að koma upp úr sjónum í fisklíki með mannshöfuð undir fiskhöfðinu, mannshöndum undir uggum og mannsfótum undir sporði. Hann kendi mönnum búskap og jarðrækt og listir og vísindi. Skrifaði hann bók eina um uppruna hlutanna og byrjun menningarinnar og gaf svo mönnum bókina. Alt til skamms tíma þektu menn ekki annað til sagna þessara, en það sem menn höfðu eftir hinum kaldeiska sagnaritara Berosus. Var hann uppi á dögum Alexanders mikla, rúmlega 300 árum f. Kr. Skrifaði hann upp eftir hinum helgu ritum Kaldeumanna stutt ágrip af sögum þessum handa Grikkjum. En svo týndust rit

Berosusar svo að menn höfðu að eins eftir stuttar greinar sem nokkrir grískir rithöfundar höfðu tekið upp eftir honum. Brot þessi voru einkum í ritum þeirra Polyhistors og Appollodorusar, þóttu þau merk mjög því mönnum fundust þau koma einhvern vegin undarlega heima við ritninguna. En svo fóru menn að finna hinar fornu töflur Kaldeumanna, ritin æfagömlu,sem Berosus hafði haft fyrir sér, og þá sáu menn að þarna voru sögurnar fullkomnar, sem Berosus hafði tekið ágrip af handa Grikkjum.

Einkum var það Smith nokkur (enskur) sem fyrstur tók eftir þessu. Hann rak sig á töflubrot er flutt höfðu verið til gripasafnsins breska í Lundúnum, og er hann fór að lesa þau, sá hann að þarna voru sögur um sköpunina, syndaflóðið o. fl., en þetta var alt í molum, töflurnar voru brotnar sundur í marga parta, það vantaði í þær sum stykkin og þá var ekki um annað að gera en að fara austur í Asíu að leita þeirra. Þetta gerði hann og fór þangað að grafa í rústum hinna gömlu borga og flutti heim mikið af því, er hann fann. Nokkuð fann hann af brotum þeim er vantaði, og margt nýtt og merkilegt. Víða vantaði þó enn í, en síðan hafa menn smámsaman fundið nýja og nýja parta, og er nú svo komið að menn hafa sagnir þessar að meiru eður minna leiti samanhangandi.

Sköpunarsaga þessi er kölluð sköpunarsaga Kaldeumanna, og byrjar hún þannig:

"Þegar himininn uppi og jörðin niðri voru enn ónefnd (þ. e.: voru ekki til) var Apsu (afgrynnið) og Mummu-Tiamat (sjórinn) upphaf allra hluta. Vötn þeirra blönduðust og runnu saman. Þar í lág lífsfræið, en myrkrunum var eigi létt af vötnunum og ekkert frjóvgaðist eða óx. Þá voru guðirnir ekki. Seinna urðu þeir til og hinir guðdómlegu skarar himins og jarðar (andar himins og andar jarðar). Og dagarnir lengdust og guðinn Anu (himininn)........" Hér vantar brot í, en svo kemur næsta tafla og segir frá sköpun himinhnattanna: "Hann (Anu) tilbjó staði handa hinum miklu guðum skóp stjörnurnar, setti mánuði og ár, upphaf þeirra og endir. Hann skóp plánetunum brautir svo að þær reikuðu eigi frá þeim. Hann bjó Bel og Ea bústað með sjálfum sér. Hann opnaði hlið himnanna og festi sterklega boltana til hægri og vinstri handar. Hann lét tunglið skína til að ráða nóttunni, og ákvað kvartilaskifti þess í dagatali, og bauð því að rísa og ganga niður og hlýða lögum sínum."

Önnur tafla segir frá því hvernig guðirnir (alveg eins og í 1. bók Mós., þar sem rétt þýðing er "guðirnir" en ekki "guð") skópu hinar lifandi verur, er uppfylla jörðina, dýrin á mörkunum og dýrin í borgunum, í stuttu máli allar lifandi verur.

Enn eru töflur nokkrar er segja frá sköpun mannanna, og óhlýðni mannsins og syndafallinu, er svarar til syndafallssögu Mósesar, en óglöggar eru þær töflur sem enn hafa fundist. Hefir fundist kefli eitt með myndum á, er á eflaust að tákna syndafallið. Þar er tré í miðju en karl og kona sytja andspænis hvort öðru með tréð á milli sín, hangir ávöxtur úr neðstu greinum þess og rétta þau bæði út hendurnar til ávaxtarins, en bak við konuna er málaður höggormur og stendur á sporðinum, en teygir hausinn upp að eyra konunnar, eins og vildi hann kvísla einhverju að henni.

Þegar menn nú sjá, að bæði þessar og aðrar sögur sem fundist hafa, koma heim við það, er Berosus segir, svo að engu skilur, þá sjá menn um leið að rithöfundur sá er áreiðanlegur, og styrkist sú trú manna enn meira við það, að brot þau sem menn nú eru að finna, koma heim við sögu hans oft orði til orðs.

Berosus þessi segir oss, að guðinn Bel hafi lagt til eigið blóð sitt að því yrði hnoðað saman við leirinn, er mennirnir voru gerðir af, og veldur það því að þeir eru skyni gæddir og hafa í sér guðlegt eðli. (Af þessu má sjá hvaðan hugmyndin er, að guð skyldi gjöra manninn af leiri jarðar).

Enn eru töflur fundnar og töflubrot er koma saman við sögu Berosusar og segir þar, að í miðju heimsins — meðan alt var myrkrur og vatn — hafi frumefni lífsins verið starfandi í sífellu en án nokkurrar reglu og hafi svo myndað alls konar óskapnað, verur líkar mönnum, sumar vængjaðar, sumar tvíhöfðaðar, með geitarfótum og geitarhornum. sumar svo að aftari hlutinn var hestur en fremri hlutinn maður. Þetta gekk svona til þess er guð kom til og gerði skipulag á alt saman. Allar þessar verur dóu út þegar Bel skapaði ljósið og aðskildi himininn og jörðina. Voru þetta alt börn myrkursins og þoldu ekki ljósið og lög þau er guð setti né guðlega skynsemi.

Þá hefir "lífsins tré" verið mikið dýrkað þar eystra. Má sjá það fyrst á myndinni þar sem maðurinn og konan með höggorminn að baki sér sitja við tréð, og svo á ótal myndum öðrum frá fyrstu tímum Kaldea. Þetta tré átti að tákna lífið. þetta óskiljanlega afl, sem maðurinn gat ekkert skilið í,en hlaut þó að viðurkenna, því að hann sá það daglega fyrir sér, þetta dularfulla afl sem kom grösunum og trjánum til að vaxa, þetta afl, sem lét mennina og dýrin fæðast og þroskast. Hvað gat verið eðlilegra en að þeir tækju tréð sem ímynd þessa afls, og hvað var eðlilegra en að þeir færu og tilbæðu það? Miklu seinna fóru menn að láta tréð tákna heiminn sjálfan (sbr. hina norrænu goðafræði: Ask Yggdrasils) og voru hin gullnu epli þá stjörnurnar. En hér hjá Kaldeum táknaði það lífskraftinn

og vér sjáum alstaðar myndir af konungum sem standa frammi fyrir tré þessu og færa því fórnir. Dýrin eru á myndunum látin krjúpa á kné fyrir því, svo er helgi þess mikil.

En þetta lífsins tré er einnig hjá Kaldeum bundið við sælustaðinn paradís. Kaldear höfðu sína paradís eins og aðrar þjóðir. Hugsuðu þeir sér staðinn á fjalli einu, voru þar uppsprettur vatna er runnu saman og urðu að elfum miklum Í aldingörðum þessum voru heilög tré sem báru dýrindis ávexti. Eitt af trjám þessum var lífsins tré. Var hugmyndin um sælustað þennan svo rík hjá mönnum, að menn fóru að reyna að líkja eftir þessum hugsjóna aldingarði. Konungarnir bygðu hallir sínar og prestarnir musteri sín á hæðum miklum er þeir hlóðu undir þau, og þar bygðu þeir þessa hangandi aldingarða sína, sem Grikkir kölluðu Paradeisoi. Þessar paradísir sáu gömlu Hebrearnir, forfeður Abrahams, daglega fyrir sér og þaðan höfðu þeir hugmyndina um aldingarðinn Eden með þessu lífsins tré, sem áður er sagt frá.

En í sambandi við þessa upphækkuðu staði skal getið hinna helgu mustera þeirra Ziggurat með skríni guðs einhvers í efsta toppi musterisins. Musteri þessi áttu að vera nokkurskonar eftirlíking fjallsins helga, er þeir héldu að himininn snerist um eins og á hjólgaddi og guð átti að búa á. Eitt af þessum helgu musterum var bygt í borginni Birs Nimrud. Var það helgað hinum 7 himintunglum og voru 7 stallar hver upp af öðrum ferkantaðir, en efri stallurinn einlægt mjórri en hinn neðri og var gangur breiður utanum hvern stall. Musterið var því topp- eða strýtumyndað. Var neðsti pallurinn helgaður Saturnusi, 2. Jupiter, 3. Mars, 4. sólu, 5. Venus, 6. Merkúr og 7. tunglinu. Fimm af þessum neðri pöllum hafði einhver konungur bygt lengst uppi í fornölld, en svo hafði musterið ekki komist lengra og stóð ófullkomnað um mörg hundruð ára, þangað til Nebúkadnesar, um 600 fyrir Krist, tók til og lét byggja ofan á það tvo efstu pallana og var hinn efsti helgaður tunglguðnum allur silfri sleginn að utan. Þetta, að musterið skyldi sitja þarna ófullgjört öldum saman, hefir óefað orðið til þess, að ýmsar sögur mynduðust út af því hvernig á því stóð, að menn skyldu hætta við að byggja turn þennan og ein af sögum þessum er hebreska sagan um turninn Babel, og skifting tungumálanna.

En nú skulum vér víkja aftur að sköpunarsögunni. Þegar Bel, einn af guðaþrenningunni gömlu, Anu, Ea og Bel, fór að skapa og eyddi skepnum myrkranna með ljósgeislum sínum, verður óskapnaðar guðinn Mummu Tiamat, er áður ríkti, svarinn óvinur guðanna og sköpunarinnar. Er hann ýmist nefndur "drekinn" eða "hinn

mikli höggormur" og ætla menn að það hafi hann verið, er stóð að baki konunnar er hún átti eplið að taka. Brátt gjörist fjandskapur þessi svo mikill að guðunum verður ekki rótt. Setjast þeir á ráðstefnu og ráða með sér, að einn þeirra skuli berjast við óvættinn og verður Bel fyrir því. Hafði Anu gjört honum vopn ágæt, boga, sverð og vopn önnur og gengur nú Bel á móti drekanum og hefir að auk þrumufleyginn í hendi sinni. Móti honum kemur drekinn Tamat með sveit sinni og fylgir þeim dauði og eyðilegging hvar sem þeir fara. En Bel veitir svo snarpa aðsókn í fyrstu að drekinn fellur og ætlar þá Bel að fjötra hann. En skyndilega sprettur drekinn upp með ópi miklu og ræðst á guðinn, hið sama gjörir sveit hans og verður nú bardagi harður. Meridug (Bel) bregður sverði sínu og særir óvættinn, en Tiamat opnar ginið og ætlar að gleypa guðinn, þá skipar guðinn vindinum að fara inn í líkama hennar og við það dasast hún, svo að Bel gat bundið hana og flýði þá allur flokkur hennar. Mjög eru sögurnar um þetta ófullkomnar en, en einlægt er að finnast það sem á hefir vantað, og á ótal myndum er málaður aðgangur þeirra Bel og drekans, svo að ómögulegt er að ganga úr skugga um sögu þessa.

Önnur saga er og til um uppreist hinna 7 anda undirheimanna, er upprunalega voru sendisveinar guðanna. Er einum þeirra líkt við höggorm, öðrum við lépard og hinum við skepnur aðrar. Mun það vera útskýring á skýjum himins í óveðri. Ráðast þeir á tunglguðinn. Verður sólin að leggja á flótta en Ishtar (ástagyðjan er ríkti yfir plánetunni Venus) flýr upp til hins efsta himins þar sem Anu býr. Anu sendir þá son sinn, Meridug, öðru nafni Bel, að hjálpa tunglinu og gjörir hann það og sigrar þessa 7 myrkranna anda. Þetta mun nú vera hvorki meira né minna en útskýring á tunglmyrkva, því að svo óskiljanlega atburði þurftu þessir gömlu menn að gjöra sér grein fyrir og varð það á þennan hátt. En nú geta menn séð hvaðan hugmyndin hebreska er komin, að djöfullinn hefði hafið upprist á móti guði, verið sigraður og bundinn o. s. frv.

(Framhald.)

---

LÍTILLÆTI (eftir Ruskin). — "Ég trúi því að hið fyrsta einkenni á miklum manni sé lítillæti. Ég á ekki við það, að hann efist um eigin mátt sinn, eða sé hræddur við að segja meiningu sína. Allir miklir menn vita hvað þeir meiga sín,en þeir eru ekki að gorta af því. Þeir ætlast ekki til að bræður þeirra falli fram og tilbiðji sig. Það er einhver undarleg tilfinning hjá þeim, að þeir séu nú eiginlega ekki miklir þó þeir geti gert hitt eður þetta. Þeir gera það og það er svo sem sjálfsagt." — Ruskin er nafnfrægur enskur málari og rithöfundur.

# Ræða.

Flutt í Winnipeg í Marz 1895.
Eftir SÉRA M. J. SKAPTASON.

Niðurlag.

Sagan um framfarir mannkynsins er sagan um þetta, hvernig einhver sannleikur hefir orðið ljós einum eða fleiri í fyrstu, og þeir svo breitt hann út frá sér aftur; þeir hafa ekki farið í felur með hann, ekki skammast sín fyrir hann, heldur hafa þeir opnað hjörtu sín fyrir honum, orðið hrifnir af honum, og fundið hjá sér sterka löngun til þess, að miðla öðrum af honum, að láta aðra njóta hans. Þessir menn eru það, sem hafa fleygt mannkyninu áleiðis, bætt það, mentað það, siðað það, hjálpað því og leitt það á einn eður annan hátt, og spurningin um það, hvort vér viljum standa við sannfæringu vora er því spurningin um það, hvort vér viljum hjálpa til þess, ganga í flokk þeirra manna, sem eru að lyfta mannkyninu upp, sem eru að beina því leiðina til guðs.

Það er að vísu sáralítið, sem hver einstakur maður getur gjört, kann margur að hugsa, en það er rangt, svoleiðis megum vér ekki hugsa. Hið straumþunga fljót er gjört af ótal smálækjum og ám, og lækur hver af ótölulegum dropum. Það er einmitt hið smáa sem verkar mest á heiminn, þegar öll hin smáu áhrif sameinast að einu marki. Vér getum verið vissir um það, að guð lítur eins á það, þegar grátitlingurinn fellur til jarðar. eins og þegar eitt eður annað stórveldi heimsins hrynur um koll. Guð lítur eins á hinar lítilfjörlegu tilraunir vorar eins og á stórvirki einnar eður annarar frelsishetjunnar. Og ef að vér getum séð einhvern sannleik, ef að vér fáum sannfæringu um eitt eður annað, þá er það heilög skylda vor að standa við það og fylgja því fram.

Það er alls staðar, að þetta kemur fram, að vér þurfum að standa við sannfæringu vora, það er hvað breytnina snertir. Vér þurfum og eigum að hafa hug á því að koma fram eins og vér erum, að láta í ljósi skoðanir vorar, að halda sjálfir um stýrið á voru eigin skipi. Vér verðum að hafa það hugfast, að vér eigum að standa á vorum eigin fótum, en ekki á annara. Vér megum ekki láta leiða oss, sem sauði, heldur eigum vér að ganga sjálfir og meira að segja hjálpa öðrum til að standa, hjálpa öðrum til að ganga, hjálpa öðrum til að sjá og skilja eins og vér gjörum.

Ég drap á það að menn heyrðu stundum talað um, að standa við sína pólitisku sannfæringu, en það er einnig nú fyrir fáum ár-

um farið að tala um trúarlega sannfæringu meðal Íslendinga. Íslendingar eru að færast úr því dauðamóki sem yfir þeim hefir legið, að hafa enga sannfæringu í trúmálum. Ég hygg að það megi nú segja um þá flesta hér vestra, að þeir séu nú annaðhvort búnir að afla sér sannfæringar í trúmálum, eða þá, að þeir séu að leita fyrir sér að sannfæringu í þeim efnum. Það var líka mál til komið. Ef að mönnum ríður á að hafa sannfæringu um eitt eður annað atriði í daglegu lífi, þá ríður mönnum þó mest af öllu á því, að hafa sannfæringu um trúmál; þær hugmyndir eru undirstaðan undir öllum öðrum hugmyndum vorum um rétt og rangt, um það, hvað er göfugt og hvað ekki, um sóma og heiður, um satt og ósatt, um kærleika og ekki kærleika, og ef að sá grundvöllur er rangur, eða ef að hann er enginn, þá er sá maður illa staddur. En aftur á móti ef að grundvöllur sá er vér þar byggjum á, er góður, og ef að vér byggjum á honum af sterkri sannfæringu, þá hefir það áhrif á alt vort líf. Ef að vér erum óhreinir þar, ef að vér felum sannfæringu vora fyrir fjöldanum eins og um tíma hefur verið siður allmargra, sem þó hafa staðið svo hátt að fjöldinn hefir horft á þá, þá eru þeir hræsnarar og hið mesta eitur í mannfélaginu, hversu margir eða miklir, sem aðrir kostir þeirra kunna að vera. Ef að vér þegjum þegar vér eigum að tala, ef að vér látumst trúa því, sem vér ekki trúum, ef að vér að ytra áliti samþykkjum það sem er þvert á móti vorri hjartans sannfæring, þá eyðileggjum vér sjálfa oss í siðferðislegu tilliti, og ekki nóg með það, heldur eyðileggjum vér siðferðishugmynd allra þeirra, sem vér lifum saman við. Vér erum þá siðferðisleg úrþvætti og gjörum aðra að siðferðislegum úrþvættum líka. Þetta er ekki þar með búið, því að þeir sem á þetta horfa og sjá í gegnum alla þessa hræsni og tvöfeldni, leiðast til þess fyrst og fremst, að líta á oss sjálfa og svo á alla trú með hinni mestu fyrirlitningu og viðbjóði. Hræsnin og tvöfeldnin verður æfinlega hverju máli til niðurdreps og eyðileggingar, það megum vér reiða oss á. Og því er eins varið í trúmálum, sem öðru. Vér eigum að hugsa eins og Kristur, sem sagði: til þess em eg fæddur og til þess kom eg í heiminn að eg bæri sannleikanum vitni. Vér eigum allir að bera sannleikanum vitni, vér eigum að stuðla að því af fremsta megni, að aðrir beri honum vitni.

Hvernig færi nú ef að börnunum væri kent það, að þau skyldu ekkert hirða um sannfæring sína, ekki standa við hana, nema þegar þau hefðu einhvern fjármunalegan hagnað af því? Ef að móðirin segði við barnið sitt: hirtu aldrei um sannleikann, barnið gott, hirtu aldrei um sannfæring þína, þú átt að hafa hana til þess að lifa

á henni, það hefir margur maðurinn gert og farnast vel. Ef að svo væri, þá vex barnið upp þannig, að það hirðir ekki um rétt eða rangt, það lærir þessa tvöfeldni undir eins, drekkur hana inn með móðurmjólkinni að segja má, og eftir því sem það vex meira, því æfðara verður það í þessari ódygð. En hvernig verður maður sá sem þannig er gerður? Geta vinir hans treyst honum, að hann reynist þeim trúr og dyggur? Er honum trúandi fyrir nokkru málefni? Geta menn treyst á loforð hans? Er hann góður félagsmaður? Er hann góður borgari, góður ektamaki, góður faðir? Nei, enginn getur treyst honum, ekki vinir hans, ekki konan hans, ekki börnin hans. Já, en þetta kennir nú enginn maður barni sínu, enginn faðir lætur barn sitt alast þannig upp, því er nú betur, kann margur að segja. Já, menn kenna þeim það kanske ekki með berum orðnm, menn kenna börnum sínum yfir höfuð svo sára lítið sjálfir. Menn kjósa heldur að láta hina rétttrúuðu presta kenna þeim um víti og endurlausn. En hvaða lærdómur hefir sterkari áhrif, — hvaða lærdómur festir dýpri rætur í hjörtum barnanna, í hjörtum vinanna og samferðamannanna, heldur en dæmin sem þeir sjá fyrir sér? Og þau læra börnin einkum af foreldrunum. Og ef þau sjá fyrir sér þessa andlegu aumingja, sannfæringarlausa menn, eða menn og konur sem sjaldan eða aldrei standa við sannfæring sína, sem ekki hafa einurð til að láta skoðanir sínar í ljósi, en fela þær og látast hafa alt aðrar skoðanir en þeir hafa? Ef þau hafa þetta fyrir augum sér,, þá festir það svo djúpar rætur í hjörtum þeirra, að það er harla torvelt að uppræta það. Það er kanske ekki ætíð svo, því stundum er það að börnin fyrirlíta foreldrana fyrir lítilmensku þeirra. En sé það ekki, þá læra þau af þeim. Hvorugt er gott. Það er ekki ákjósanlegt fyrir föður eða móður, að barnið fyrirlíti þau, þegar það kemur til vits og ára, en betra er það þó, heldur en það, að barnið spillist af þeim. Ég held að ekkert foreldri vildi baka barni sínu ólæknandi sjúkdóm, en þó er það engu betra, ef að það með eftirdæmi sínu elur upp hjá barninu andlega veiki, sem eyðileggur alt þess siðferðislega líf.

Já, þér feður og mæður, í stað þess að láta það svo til ganga ættum vér að kenna börnum vorum að standa við sannfæring sína, kenna þeim að hafa fulla einurð á að líta framan í fólk, að standa uppréttir á fótunum en ekki skríðandi á hnjánum. En nú verðum vér að gæta þess, að sannfæringin getur oftlega verið röng, og því er það fyrsta sem menn þurfa að hafa hugfast, að afla sér sannfæringar. Vér eigum að leita og leita, reyna að búa oss til sannfæringu, bygða á svo góðum rökum sem oss er mögulegt að fá. Að

hafa sannfæringu í blindni er ekki holt, eða að búa sér til sannfæringu eftir sannfæringu einhvers annars, það verður eins og þegar kjósandinn átti að fara að kjósa þingmann, en þegar að kosningaborðinu kom, þá mundi hann ekkert hvað þeir hétu, sem kjósa áttium, og sagðist svo kjósa þann sem hann Pétur á Hóli hefði kosið. — Þetta dugir ekki, vér verðum að bera meiri virðingu fyrir sjálfum oss en svo, vér verðum að bera meiri virðingu fyrir öllu göfugu og góðu en svo, að vér látum slíkt henda oss.

Kæru vinir, vér skulum reyna að hefja nýja öld í þessu tilliti. Vér skulum aldrei skammast oss fyrir skoðanir vorar. Vér skulum aldrei liggja á þeim eður fara með þær í felur. Vér skulum vanda sannfæring vora sem best vér getum, reyna að byggja hana á svo sterkum rökum sem oss er mögulegt, en svo skulum vér líka í drottins nafni halda henni fram. Gefum börnum vorum það eftirdæmi svo þau verði hreinskilin hræsnislaus, sannleik-elskandi menn og konur. Ef vér kostum kapps um það þá mun guð blessa þá tilraun vora. Vér göngum þá í flokk þeirra sem lyft hafa heiminum áfram og upp á við. Vér leggjumst þá á eitt með guði að skapa og bæta heiminn.

---

# ATHUGASEMDIR

VIÐ FYRIRLESTUR SÉRA N. STEINGRÍMS ÞORLAKSSONAR "UM GUÐDÓM DROTTINS VORS JESÚ KRISTS," Í ALDAMÓTUM 1891.

EFTIR JÓNAS KORTSON, MOUNTAIN, N. D.

Framhald.

Fl. "Og hver sem sér soninn og trúir á hann, hefir eilíft líf og ég mun uppvekja hann á efsta degi."

Sv. Hér er skilið eftir þetta: 'Því það er vilji þess sem mig sendi.' Þennan guðs vilja sýnist fl. ekkert vilja hafa með að gera. En að Jesús reisi frá dauða sýnir Nýatestamentið að er bull, því það sýnir í 20 stöðum að guð hafi reist Jesú frá dauða.

Fl. "Og hver sem á mig trúir hefir eilíft líf. Hver sem étur mitt hold og drekkur mitt blóð, sá hefir eilíft líf. Ég em heimsins ljós. Sannlega segi eg yður, ef að nokkur varðveitir mitt orð, skal hann ekki að eilífu sjá dauðann. Ég em dyrnar, ég em góði hirðirinn. Þann sem mér þjónar mun faðirinn heiðra."

Sv. Þetta sýnist mér óviðjafnanlegt grobb, og betra þætti mér

óverðskuldað last en staðlaust lof. Ef menn vissu hvað væri Jesú orð, þá gæti verið að menn trýðu því, að þau vísuðu til sælla lífs; en að hann sjái aldrei dauðann, því trúir enginn, þar sem menn alt í kring um sig sjá ráðvanda sem óráðvanda hrynja niður fyrir dauðanum. Að sá sem þjóni Jesú hann heiðri faðirinn, það sýnir hvað Jóhannes setur Jesú ofar en guð, svo að hann tigni Jesú þjóna. Von er að prestarnir tigni Jesú er þeir eiga von á að guð heiðri þá um alla eilífð.

Fl. Ég em vínviðurinn. Hverja þá grein á mér sem ekki ber ávöxt afsníður faðirinn. Enginn getur borið ávöxt nema hann sé áfastur mér (Jóh. 15. kap.)

Sv. 1. v. er svona: 'Ég em hinn sanni vínviður, faðir minn er vínyrkjumaðurinn.' Þá vil ég spyrja: er vínviðurinn sama eðlis og vínyrkjumaðurinn? Sé því neitað, sem búast má við, þá er um leið neitað sama eðli hjá Kristi og guði, neitað guðdómi Krists. 2. v. hálft er skilið eftir, þetta: "en hverja þá grein sem ber ávöxt hreinsar hann svo að hún beri meiri ávöxt." Hvað gagnar það að vera gróðursettur á Jesú, fyrst faðirinn þarf að hreinsa þær greinar sem bera ávöxt, en hinar svo dauðar, að almættið getur ekkert gert við þær, nema höggva þær af syninum elskulega.

Fl. Enginn kemur til föðursins nema fyrir mig. Hver er þá þessi er þannig talar um sjálfan sig? Það er fjærri að vér þyldum manni með fulla ráði að tala þannig.

Sv. Hér eru þá allir fordæmdir sem ekki trúa á friðþæging Jesú. Það er hvorttveggja að Jóhannes lofar þeim miklu sem trúa á Jesúm, þetta: "Sannlega sannlega segi ég yður, sá sem trúir á mig mun gera það verk sem ég geri, og hann mun gera meiri verk en þessi." Nú segir guðfræðin að enginn nema guð geti gert þau verk sem Jesús gerði. Hvaða loforð er þá þetta? Það er eitt af ermarloforðum kristindómsins, sem margir nú ekki líta við, jafnvel hinir helgustu kyrkjumenn. Það er fyrir biblíunni sem öllu í náttúrunni að þegar það er komið á hnignunaraldurinn, þá fara fáir að kannast við það. Hið nýrra gleður sig við ungblóm sitt, og lífsglæðinguna með allri sinni nýbreytni, eður endursköpun, er alt má hlýða nauðugt sem viljugt, sterkt sem veikt, fagurt sem ljótt. Og þetta sýnast örlög náttúrunnar.

Fl. Og rétt áður en hann skilur við lærisveina sína segir hann þeim að boða í nafni sínu öllum þjóðum afturhvarf og fyrirgefning syndanna. Maður að láta boða í sínu nafni öllum þjóðum afturhvarf og fyrirgefning syndanna! væri það ekki guðlast?

Sv. Ég er hræddur um að Lúkas hafi ekki ritað þetta, því í

postulanna gjörningum segir hann að Pétur postuli hafi þurft að fá þrisvar himneska opinberun áður hann skýrði hinn heiðna Cornelíus og hinír lærisveinarnir átöldu hann fyrir að hafa heimsótt óumskorna og samneitt þeim. En þá er Pétur sagði þeim alla söguna, þá fögnuðu þeir og vegsömuðu guð svo segjandi: 'guð hefir þá einnig unt heiðnum þjóðum endurvitkunar til sáluhjálpar.' Hafi Lúkas skrifað hvorttveggja, gerði hann sig að falsspámanni, sem verðskuldaði almenna fyrirlitningu; hafi hann logið öðru hvoru, þá er víst að hann hefir logið um eldlegu tungurnar á hvítasunnu. En þrenningarkyrkjunni er hvorttveggja jafn dýrmætt. Hún hrærir alt saman í eina kássu og gefur svo gaddgengnum og gráðugum sauðum sínum.

Fl. Svo skulum vér þá sjá hvort ekki nafnið guðs son, þegar hann nefnir sig því nafni, táknar meira heldur en þegar það er haft um menn, hvort ekki í því komi í ljós meðvitund hans um það, að hann sé æðri vera Sem tólf ára gamall drengur segir hann í musterinu við Jósep og Maríu; "Vissuð þið ekki að mér bar að vera í því sem míns föðurs er." Það er greinilegt að hann hér hefir skoðað guð föður sinn í æðri merkingu, heldur en þegar vér köllum hann föður, því andspænis þeim föður sem María nefnir (Jósep), setur hann sinn föður (guð).

Sv. Í sama kapítula (50. v.) stendur: "En þau skildu ekki hvað hann meinti." En því skildu þau ekki hvað hann meinti, ef að Gabríel engill hafði boðað Maríu getnað Jesú sem sonar hins hæsta? — Það er einn staður í Jóhannesarguðspjalli sem mig undrar á að þrenningarkyrkjan hefir látið standa óbreyttan, nefnil. þetta: Filippus fann Natanael og sagði við hann: Vér höfum fundið þann sem Móeses skrifaði um í lögmálinu og spámennirnir, Jesúm, son Jóseps frá Nazaret." Þessu hafa klerkar sjaldan hróflað, en að það skuli enn standa óbreytt, er undravert.

Fl. Í freistingarsögunni kallar freistarinn hann guðs son í æðri merkingu, því að hann segir, að sem guðs son sé hann almáttugur og geti gert það kraftaverk, að gjöra steinana að brauðum. Jesús gefur ekki með einu orði til kynna, að hann álíti það rangt að hann sé metinn svona mikils. Þó að því annar kalli hann guðsson hér, þá er það einmitt þess vegna hið sama og hann hefði gjört það sjálfur, þar sem hann staðfestir álitið með því að leiðrétta það ekki.

Sv. Því hefir fl. ekki sömu orð og freistarinn hafði við Jesú? "Ef þú ert guðs sonur, þá bjóð þú að steinar þessir verði að brauðum." Nei, fyrir lesarann vantar vitni, hæfilegt að koma fram á kyrkjuþingi Vestur Íslendinga, að vitna um guði þess. Og til enn

betur að villa forblindaða sauði, fer hann marga hringi kring um freistarann, líkt og fugl sem er að verja hreiðar sitt, og þá er hann álítur sig kominn nógu langt með athygli lesarans frá efninu, þá skýst hanu að gamla Satan og lyftir honum í sætið hjá Jesú. Af þessu má sjá hvað Satan er nauðsynlegur hinni sanntrúuðu kyrkju Vestur-Íslendinga.

Fl. 'Og alveg eins er um það, þegar mennirnir á bátnum segja við hann: vissulega ertu guðs sonur, þegar þeir sjá hvernig veðrið lægir um leið og hann stígur inn fyrir borðstokkinn". (Matt. 14.).

Sv. Já Það mun vera jafn-satt og jöfnuðurinn á Satan og Jesú. Því Jóhann s, sem skrifar sömu söguna, segir: "Þeir vildu þá taka hann innbyrðis og jafnskjótt rann skipið að landi, þar sem þeir réru að". Hér slotar veðrinu ekkert og engin fyrn fylgja. Hafi Jóhannes ekki viljað rita um dásemdirnar, sem áttu að fylgja veðrinu, hefir hann ekki elskað Jesús eins og hann segir Jesús hafi elskað sig.

Fl. Svo spyr hann lærisveina sína: En hvern hyggið þið mig vera? og svaraði þá Símon: Þú ert Kristur, sonur hins lifanda guðs, og áhrærandi þessa þekkingu Péturs á honum, sem syni guðs, segir hann við Pétur, að hold og blóð hafi ekki auglýst honum þetta, heldur sinn himneski faðir (Matt. 15.). Hann segir þá með því beint út, að hann sé sonur hins lifanda guðs, og að enginn geti vitað þetta nema guð opinberi honum það.

Sv. (Matt. 8.). Þá er þeir djöfulóðu hlupu til Jesú, hrinu upp og sögðu: "Hvað höfum vér og þú, guðsson, saman að sælda". Mikill munur hefir verið á guði þá og nú; er hann þá opinberar djöflum sem mönnum sitt guðdómlega leyndarráð. En þó að prestar hans og söfnuðir þeirra séu nú allir í einu kófi af áreynzlu bæna til hans, verða þeir aldrei varir við bænheyrslu svo neinn viti. Sama þó þeir biðji hinn miskunnarfúsa Jesú, og hinn hjálpargjarna heilaga anda, þá kemur það alt fyrir ekki neitt. En seinna gripu blessaðir prestarnir annað ráð, sem duga skyldi í augum fáfróðra tilheyrenda það, að hafa í sínu orðinu hvað, líf eða dauða, er þeir báðu fyrtr sjúkum, hlaut þá annaðhvort að verða, en hjörðin hrópaði: ó, það skiftir oftast um til annars hvers, lífs eða dauða, þá er blessaður presturinn tekur til bæna! Þetta er eitt sýnishorn af því, að söfnuðir trúa meira á presta sína, en guði sína, svo hin svo kallaða guðsdýrkun er í raun og sannleika prestadýrkun, sem mörg dæmi önnur sýna.

Fl. Líka spurði Jesús Fariseana einu sinni: Hvers son er

Kristur ? Þeir svöruðu: Davíðs. En hann spyr aftur: Því kallar Davíð hann þá í anda: drottinn sagði mínum drottni (Matt. 22.). Er það ekki auðséð að hann bendir á sig sem guðs son í æðri merkingu?

Sv. Er þetta ekki hálf skrítin uppfinding kyrkjunnar, að láta Jesú spyrja svona, til að geta bygt það á 110. Davíðs sálmi? Þó að þar sé hvorki nefndur sonur né Kristur, heldur: drottinn sagði mínum drottni. Eða geta klerkar sannað, að Davíð hafi ort sálminn, þar enginn getur með vissu sagt, hvað Davíð orti af Þeim. Því formáli 5 útgáfu íslenzku biblíunnar segir það hafi verið löngu fyrir Davíðs tíð, byrjað að yrkja þá, og haldið áfram með það eins eftir hans daga. En allir eignaðir Davíð af því hann kom á söng við guðsþjónustur Gyðinga. En þó að Davíð hefði ort sálminn og það um Jesú, þá sýnir hann að hann hljóðar um mann, sem hinn drápgjarni guð Gyðinga sendi til að: "fylla lönd þjóðanna líkum". En annað eins get ég ekki séð að geti átt við framkomu Jesú. Hann sem sagðist vera kominn til að frelsa en ekki til að dæma né deyða.

Fl. Ég vil halda áfram að tilfæra staði er betur og betur sýna hvaða meðvitund hann hafði um það hver hann væri. "Eg er ekki kominn til að aftaka lögmálið og spámennina, heldur til þess að fullkomna það" (Matt. 5.), og þó gefur hann þessu orði þann vitnisburð: "að það sé framgengið af guðs munni" (Matt. 4, 10).

Sv. Þá er Jesús sagði við freistarann: Far frá mér satan, því skrifað er, drottinn guð þinn átt þú að tilbiðja og honum einum að þjóna. Hver sannleikskær maður mundi nú geta sagt sem fyrirlesturinn, að það væri sami vitnisburður beggja, Jesú og Satans? Þó að höf. fyrirl. sæist yfir svona herfilega, þá var líklegt að hinir sem gefa út "Aldamót", hefðu lagað þessa villu. Því það er ekki framar óvirðing á höfundinum en öllu kirkjuþinginu og reyndar öllu kyrkjufélaginu, þar sem enginn andæfir því. En nú er að athuga hvað lögmálið og spámennirnir höfðu fyrir grundvöll kenningar sinnar nefnil. þetta: Heyr þú Ísrael, drottinn, vor guð, er sá einasti guð. Og allar lögmálsins bölvanir lagðar við fleir-guða dýrkun. Og þetta orð segir fyrirl. að framgengið sé af guðs munni. Því hlíða þá þrenningar prestarnir ekki þessu guðs orði? Af því að þeir trúa ekki lögmálinu, spámönnunum né Jesú sínum. Það sýnist sem þeir einungis trúi hnefakvössu biskupunum á Niceu þingi þó 50 af þeim gætu ekki skrifað nafnið sitt.

Framhald.

---

## Hver var kona Cains?

Sýnishorn af því hvað sumir rétttrúaðir bjóða lesendum blaðanna.

J. L. Meagher skrifar blaðinu "New York Sun" á þessa leið: "Hver var kona Cains? Hann kvæntist systur sinni, er Rispa hét. Þetta segir hinn heilagi Chrysostomus (gullinmuður) að hafi verið sögusögn (þjóðsaga) meðal Gyðinga á sínum dögum. Geta menn lesið um þetta í Duprions "Concordance of the Holy Bible". Í 1. Mósesbók 5. kap. 4. v. stendur: "Og hann (Adam) gat syni og dætur". Josephus segir að Adam og Eva hafi átt 33 sonu og 32 dætur. Kvæntust synirnir systrum sínum. Gamla testamentið var skrifað, sem undirbúningur undir komu Krists, og er því slept allri frásögu um hvern þann mann, er ekki var forboði um hann eða fyrirmynd. Hinn heilagi, saklausi Abel var ímynd Krists, er deyddur var af bræðrum sínum og Cain og Abel og sögur þeirra standa því í sambandi við Krist, en ekkert er sagt um hin önnur systkini þeirra.

Margir lesendur yðar kunna að hafa forvitni á að þekkja þýðingu nafna forfeðranna, sem lifðu frá Abraham til Nóa, og er hún þessi: Adam þýðir: maðurinn í guðs mynd eða hin skynjandi vera; Seth: settur í staðinn fyrir; kom á eftir; Enos: hinn veiki eða breiski maður; Canaan: mikill grátur; Malalael: hinn blessaði guð; Jared: skal koma niður; Henoch: kennari; Methusalah: dauði hans skal enda; Lamech: hinum lítilmótlegu; Nói: hvíld eða huggun.

Ef að menn lesa nú rétt þýðinguna úr nöfnunum þá verður það á þessa leið:

Á eftir Adam, manninum í guðs mynd, kom hinn breiski maður og varð þá grátur mikill. En hinn blessaði guð kemur þá niður, kennarinn og mun dauði hans senda hinum lítimótlegu hvíld eður huggun.

Hér í sjálfum nöfnum hinna gömlu forfeðra vorra fyrir flóðið, finnum vér opinberun um fall mannkynsins, svívirðing syndarinnar holdtekju Krists, hvernig hann muni koma sem kennari, um dauða hans og endurlausnina, sem veitist þeim, sem trúa kenningum hans, um hvíld þá og huggun, er friður frá styrjöldum veitir og um blessun menningarinnar.

Þetta er að eins eitt af því marga, sem kostgæfinn lesari getur fundið í hinni helgu bók".

Þetta eru nú sannanir þeirra klerkanna og kyrkjumannanna. En undarlegt virðist að nokkur maður með einhvern svolítinn snefil af skynsemi, skuli geta tekið inn annað eins rokna bull og þetta. Það sýnir hvað kennifeðurnir álíta alþýðuna auma og auðvirðilega, að þeir skuli bjóða mönnum aðra eins vitleysu og þetta. Menn geta

ekki varist hlátri, er menn lesa þetta og þó getur það um leið komi út tárunum á manni, að vita menn leidda og teymda og féfletta með öðru eins.

Fyrst og fremst taka þeir það sem gefinn sannleika, að allri sögunni hafi verið haldið áfram óskeikanlega frá dögum Adams, þegar enginn kunni að lesa eður skrifa, til daga Nóa, þegar enginn kunni að lesa og skrifa um þúsundir ára.

Þeir taka það sem gefinn sannleika, að Adam og Eva hafi átt 33 syni og 32 dætur, sem enginn minnsti fótur er fyrir, já engu meiri fótur fyrir, en því, þegar Möndull var að smjúga í jörðina undan Grími Ægir.

Þeir taka það sem gefið, er allir vita, að er lítt útmálanleg vitleysa, að frá sköpun heimsins til Nóa, er átti að vera uppi, segjum 2,400 árum fyrir Krist, hafi verið að eins átta liðir.

Þeir taka það sem gefið, sem allir skynberandi menn nú vita, að er bull eitt, að mannkynið hafi fallið. Það hefir aldrei fallið.

Þeir taka það sem gefið, að þessi ættbálkur Nóa hafi verið forfeður vorir, forfeður hinna aryönsku manna, en það ættu þeir að vita að er helber vitleysa.

Þeir taka sem gefið söguna um syndaflóðið, sem menn vita fyrir víst, að aldrei hefir átt sér stað.

Þeir taka sem gefna holdtekju guðsins Krists og dauða. En þegar guð er orðinn dauður hjá þeim, þá er nú orðið heldur lítið úr honum.

Þeir tala um huggun þá, sem þeim veitist, er trúa kenningum Krists, en eftir þeirra setningum og kenningum, verður lítil huggun ýfir hinum í helvítiskvölum, sem ekki trúa þeim og það hefir verið og verður æfinlega meginhluti heimsins. En því sleppa þeir. Þeir tala um friðinn frá styrjöldum, sem kristnin veiti, en gæta eigi þess, að kristnin kefir verið boðuð með báli og brandi, blóðsúthellingum og pindingum og meðan kristnin helst við, meðan biblían verður álitin guðdómleg, þá verður engin hætta á að stríðunum linni.

Með þessu og öðru eins eru kyrkjumennirnir að flagga, af því að þeir vita að það er hvorki um vitið, skynsemina eða sanngirnina að gjöra hjá áhangendum sínum.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri : Magnús J. Skaptason.
686 Alexander Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður : Magnús Pétursson.
709 Alexander Ave. — Box 305.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.